# Fáein
# Ljódmæli,

Þorgeirs Markússonar

fyrrum Prests ad Utskálum

frá 1747—1753.

---

Utgéfin á kostnad Dóttur sonar hans

Þorgeirs Andressonar

Hreppstjóra í Rosmhvalánesshrepp.

Til verdugrar og ræktarfullrar Endurminníngar Afa síns.



---

Videyar Klaustri,

1841.

# Formáli.

Parsð hreppstjóri Þorgeir Andresson hefur bedið mig, að hafa hlidsjón með Utgáfu kvers þessa eda Kvedlínga, sem hann geymt og safnað hefur eptir Afa sinn, Þorgeir Markússon fyrrum Prest að Utskálum, og hann lætur nú koma á prent, uppá sinn kostnad, sýnist mér tilhlýdilegt að skíra frá því helsta, sem eg hefi gétad komist að um Høfundinn.

Um ætt og uppruna Þorgeirs Markússonar mun flestum ókunnugt vera, og ekki hafa neinir ættartølu ritarar gétað gésið þar um upplýsingu. Tilgáta er, og ekki ólíkleg, að fadir hans Markús, hafi verið bóndi. Módir hans hét Sigríður Gísladóttir, og deydi ekkja háøldruð, hjá honum í Fuglavík. Hvar

Þorgeir hefur alist upp er óljóst, en eptir dóttur hans Valgérdi er haft, ad hann hafi ad austan komid til ekkju nokkurrar á Járngérdarstødum, og verid hjá henni smali um nokkur ár, en hún hafi komid honum, fyrir milligaungu annara, í Skálholts skóla, þegar borid hafi á gáfum hans og lyst til lærdóms. Eptir aldri hans sem finst hér í rotnum skrædum af Sálna - registri Hvalsnes presta, hefur hann átt ad vera fæddur árid 1722, og eptir vitnisburdarskrá sem fyrr meir vant var ad géfa þeim sem útskrifudust úr Skóla, af sjálfum Skólapiltunum, er eg í høndum hefi, vidvíkiandi lángafa mínum Sigurdi sál. eldra, Sigurdarsyni Sýslumanni í Árness Sýslu, og audsjáanlega er med eigin hendi Þorgeirs, sjest ad hann árid 1739 var ofarlega í Efribekk, og hefur hann því líklega útskrifast úr Skóla árid eptir eda 1741. Því næst er sagt ad hann hafi verid í skrifara þjónustu hjá Løgmanni og seinna Amtmanni Magnúsi sál. Gíslasyni, þángad til honum veittist Utskála braud 1747, vígdist hann sama ár og giptist Gudrúnu Þórdardóttur, bónda í Gérdum í Gardi og Valgérdar Jónsdótt-

ur. Um Sumarid 1753 vildi honum til sú hrøsun og ógjæfa í Réblavíkur kaupstad í høndlunar vidskiptum, hvar fyrir hann sama ár var dæmdur frá kjól og kalli; hafdi hann annars, medan hér var Prestur, haft á sér almennings ord fyrir rádvendni, og var elskadur og vyrdtur af Sóknarfólki sínu, fyrir kénníngar sínar, lipurt ordfæri og skáldskapar-gáfu. Hér eptir fluttist hann ad Róngsjørdunni Fuglavík á Midnesi, hvar hann bjó til daudadags. Árid 1758 þann 27da Febr. komst hann í mikinn sjáfarháska, í hvørju ofsavedri og fjúkbil sem samfara vard, ad af 10 skipum, sem hrakníngi mættu, fórust 6, med 38 manns á, en 4 nádu, eptir harda útivist, lendíngu, af hvørjum hann var formadur fyrir einu, sem nádi ad Gérdum, um hvad allt er gétid í hraknings Sálmi hans.

Børn átti hann 4, dóu 2 á únga aldri, Valgérdur og Markús; Gudrún hét þad 3ja, sem deydi ógipt, rúmlega tvítug, í Kirkjuvogi; þad 4da Valgérdur ad heiti, komst upp, og giptist fyrst Sæmundi bónda á Rafnkéllsstødum, Bergþórssyni, en

seinna Andresi Egilssyni bónda á Krókí, Prests Eldjárnssonar á Utskálum.

Margt af Ljóðmælum Þorgeirs Prests Markússonar er undir lok liðið, en af þeim fáu sem hér koma í ljós, má ráða, að maðurinn hefur verið andríkur, bæníkinn og samvitskusamur. Lýsir hrakníngs Sálmur hans, því trausti, sem hann í lífsháskanum hafði á Guði, og sem þeir, er á sjónum leita næríngar sinnar, og svo opt komast kunna í viðlíkar kríngumstæður, þurfa sér innrætt að hafa með hjarta = heitu bæna ákalli, eins og allstaðar endranær, hvar sem maðurinn er staddur í neyð og hættu, uppá Guð í øllu kominn. Sjøstefja Sálmurinn svo kallaður, sem inniheldur eins syndugs manns iðrun og apturhvarf, lýsir hans eigin viðurkénníngu fyrir Guði, viðkvæmni og ángri útaf broti sínu, sem hvervetna má sjá af Sálmum hans, að hann hefur haft af samvitsku þúnga. Héraðauki er eptir hann Iðrunar = Saltari í 20 Sálmum og Huggunar = Saltari, báðir prentaðir á Hólum 1755 fyrir tillhlutun Amtmanns Magnúsar Gíslasonar,

hvørja hann orkti árid eptir ad hann féll, má og af þeim vída skilja hvad nærri honum hafi geingid sín hrøsun. Þad er mælt, ad Amtmadurinn hafi bodid honum ad sækja um uppreisn fyrir hann, en hann hafi ekki þád, og sagst óverdugur ad hafa þad embætti á hendi framvegis.

Seinustu ár sín lá hann veikur í hálfvisnun, úr hvørjum sjúkdómi hann deydi árid 1769, 47 ára, og liggur grafinn vid Hvalsness kyrkju, undir Legsteini á Kórbaki.

Øll þau Ljódmæli sem hér koma fyrir sjónir, eru uppskrifud ordrétt eptir því eina handriti, er hreppstjóri Þorgeir í høndum hafdi, af hvørju Afi hans, hefur þó minnst skrifad sjálfur, heldur bædi Síra Þorkéll Olafsson, sem hér var Prestur á Hvalsnesi, um þad leitid Þorgeir Markússon deydi, (sídan Dómkirkju Prestur og Stiptprófastur ad Hólum) Jón Þórdarson, mágur hans, bóndi í Júnkeragérdi og hreppstjóri í Høfnum, og Þorkéll Jónsson, Løgréttumadur í Kirkjuvogi, sem seinna giptist ekkju Þorgeirs. Skrif-feil og stafvillur sem í handritinu fundust, hefi eg

leitaſt vid ad lagfæra; en meiníngu og ord=
færi hefi eg hvørki viljad breita, né þókſt
fær um ad gjøra, til þeſs betur færi — ſem
eg veit, þeir vyrda til vorkunar, ſem vita,
hvør vandi þar á er.

Ad lyktum óſka eg, ad Kvedlíngar
þeſsir, mættu verda þeim ſem heyra edur
leſa til áminníngar og uppvakníngar, á=
nægju og eptirlætis þeim ſem utgéfur, en
verdugs lofs og endurminníngar þeſs ſem
ſamdi.

Utſkálum þann 2ann Febr. 1841.

S. B. Sivertſen.



# Endurminning,

tilfellis sem skédi þann 27da Febr. 1758 á Sudur-nesjum, vid manna og skipa tjón og hrakning.

Lagid: Fadir vor sem á himnum ert.

1. Í sínum fagra lofsaung les, lærdóms grein þessa Móises, ad sjálfur Drottinn segir hér, svo vid Israels ky: kvislir: „Í daudans neyd eg nidurslæ, en nært og lífgad aptur fæ".

2. Málsgrein þá hafa margir reint, minnst af þeim dæmum fæ eg greint, hvørsu ad Herrann harda pín, hefur opt lagt á børnin sín; en þeim þó verid ætíd hjá, og ánoud loksins bjargad frá.

3. Allstadar hætt í heimi er, hverful vatnsbóla reinumst vér; en samt þó ætíd ö:rum meir, í háska staddir vyrdast þeir, sem útá sjó:n ega leid, af því svo margur daudann beid.

4. Sáncti Páll hafsnaud harda fékk, hradt yfir skipid sjórinn gékk; heyra þar mátti harma kvein, hvørki þeim sól né stjarna skein; en slíku daudans fári frá, fadir himnanna leisti þá.

5. Lángt sýndist Jónas leiddur hér, þá lét útbyrdis kasta sér, hrædileg þar var hætta med, hvalurinn þá hann svelgja réd; en øll til góds þau efnin vønd, almáttug greiddi Drottins hønd.

6. Hvad vil eg segja? svoddan þraut, sjálfur Frelsarinn reyna hlaut, med Lærisveinum ljóst til sanns, lífsøgu í þad stendur hans. Svoddan eitt dæmi sett mun þar, sjófarendum til huggunar.

7. Þessum eg dæmum víkja vil, víst uppá þad sem hér bar til, þá Datum skrifa þurftum vér: þúsund, sjø hundrud, fimtýger, og átta, Kristí fædíng frá, fiski — øndverdri — vertíd á.

8. Sjóferda skip hér sunnan fjalls (svo byrjar efni greina spjalls) út voru dregin

fißt ad fá, ferð var af síli komin þá, af austri vindur ofan stóð, á honum fyrst þó hægð var góð.

9. En sem þau vildu halda heim, hvassvidri gjørdi móti þeim, með fjúks og snjóblaðs myrkri hrið; minnisstæð var sú rauna tíð! Eingin þá leingur eptir sat, að landi dró sig, hvør sem gat.

10. En þeir sem dugtust vindinn við, og veikt tilburða høfðu lið, edur og skipin æri stór, eptir dróust, því vedrið fór, vaxandi þá með voða grein, varð þar á hléstund aldrei nein.

11. Formenn nokkrir sem fæ eg sagt, fyrri sig gjørðu taka í vakt; hægari sumir høfðu skip, hinum því framm hjá runnu í svip. Komust þeir svo um kvøld til lands, krapt og hjálp fyrir Lausnarans.

12. Ei kunnu þessir allir þá, aptur þó sínum høfnum ná; heldur til og frá hroktust mest, hvar sem að landi komust best. Af andródurnum ordnir hér, uppgéfnir nær og dasaðir.

13. En hinir, sem ei áfram gékk, þá ædi stormsins vara fékk, hrekjast urðu til hassins út; hóft þá — sem von var —

neyð og sút; myrkviðrið gékk svo óðum á, út fyrir borðstokk varla sá.

14. Níu svo skip í nauðum beint, af Nesinu, sem fæ eg greint, og eitt úr Höfnum enn þar til, undan þau ráku djúps á hil; af þessum tíu segjast senn, sex meiga tvíllaust forgeingin.

15. Ekkért til þeirra enn er spurt; á þeim svo dáið hafa burt, og hæðstann fögnuð himna ranns, hlotið þrjátýgi og átta manns; fyrir því þeirra freisi vér, fagurt lof, Drottinn! sýngjum þér.

16. Allir til samans erum vær, í þinni hendi, Faðir kjær! þín eign er bæði önd og líf, en þó menn kanni dauðans kíf; nær sem þú geyma gjörir önd, gott er að falla í þína hönd.

17. Ekkjur þeirra og úngu börn, anníst þín mildin líknargjörn; föðurlausra þú faðir ert, forsvar þeim öllum besta sért: útflotin þeirra ángurs tár, afþerri best þín höndin klár.

18. Hin fjögur skip, sem hroktust greidt, Herrann til lands fékk aptur leidt, nærsta dag eptir, nauðum úr, þó nætur mæðan findist súr: að vera skyldu víst til sanns, vitni um krapt og hjástoð hans.

19. Berlega vil eg birta þá, bæina sem þau voru frá, fyrst því að innan finn eg sé, Flángastaðir og Sandgerði, beinni rød heldur bygðin slík: Býasker þá og Fuglavík.

20. Þeim syðstu bæum þremur frá, þar voru bændur sjálfir á; en fyrir skipi fjórða var, framandi maður, vanur þar; áttin var mótstæð øllum eins, einginn stjórinn og flest til meins.

21. Bæa eg minnist þeirra því, að þessum vel má bygðum í, uppi vera sú ángurstíð, og hvørsu Drottins mildin blíð, heimilum þeim fékk hjástoð veitt, hvar til þó ei var meðal neitt.

22. Eg sem að kénnt fékk ókjør slík, á Sexæríng frá Fuglavík, og aðrir sjø þar meður mér, meigum berlega vita hér, að hinir sama hættubann, hafi og reynt um tíma þann.

23. Þess vegna mér í þánka bír, þar til mig líka skyldan knír: Guðs mildi verkin voldug hér, að vekja fyrir sjálfum mér, svo aðrir megi úti frá, andlega þar af nytsemd fá.

24. Eptir þá vorum orðnir vér, øll hvursu jafnsnart skipin mér, ossa bráðvind-

ur að oss þaut, aptur á bak þá gánga hlaut, veðrið svo gjörði vara greidt, að við ei gátum ráðið neitt.

25. Farms høfðum hluti feingið tvo, fiski því hlutum létta svo, að ei var meira eptir þar, enn skipinu til støðvunar, svo nokkuð hægra yrði að, ágángi sjáfar verja það.

26. Hríðin þá orðin hørðust var, hrekjast vann skip eitt að oss þar; ógjørla það við þekktum þó, við þá að tala gafst ei ró; hrøkktumst vér aptur þó frá því, þar af jókst okkur sorg á ný.

27. Urræði eingin ønnur þá, í ánauð þeirri kunnum sjá, enn halda skipi horsi í, þó hefðum allir nóg með því; og sem leingst bera okkur að, áføllum stærstu verja það.

28. Þó var tilhugsun þessi ein, er þýngsta jók mér kvíða-mein: að hefði bilur sami sá, sífeldt til morguns staðið þá, ljóst mundum hraktir lángt í haf, þó lifa nótt við kynnum af.

29. Hefur mér fólkið síðan sagt: — sjest þar af Drottins hjálpar makt, — að veður hafi valla þá, verið hér gángfært

landi á; eldraudur sjórinn sýnast vann, svo mjøg umhverfur gjørdist hann.

30. Urkula vonar ef ad þeir, um líf sitt gjørdust framar meir, er voru komnir undir land, ei því þeir sáu til þess grand; hvad mundu ekki hinir þá, er hrakníng slíkann gjørdu fá.

31. Fortekid hafa margir menn, er muna þessi tídindin; ad þann andvidris ógna svip, afbera mundi nokkurt skip; þó frost ei væri feikna stirdt, fjúkid samt gjørdist ofur myrkt.

32. Ætla vid gjørdum þá og þá — þegar stórvidrid mest gékk á — ad efalaust í einum svip, okkar forgánga mundi skip; bilud øll mannleg byrtust rád, bádum því Gud um vægd og nád.

33. Prísvar sérdeilis bad eg blídt, nær bistist þannig vedrid strídt: ad líknin þess er leysti heim, lina nú vildi ógnum þeim, svo mína lífs eg mætti fá, med hans velþókknun aptur sjá.

34. Samt øllu fremur sorgbitnir, Son Guds af hjarta beiddum vér: í dýrd og rósemd eilífa, okkar sálir ad medtaka; því vér þá ekki vissum nær, en vid oss mundu skilja þær.

35. Drifum vér þannig hafs á hil — húma nú tók, sem von var til — gjørdist þá aldan geysi stór, gékk yfir skipid margur sjór; af því vid austur optast þar, einn vor lidsmadur besti var.

36. Um dagsetur, þá dymma réd, dvínadi nokkud stórvidrid, en ei þó svo vid gjætum greidt, til gagns med árum dreigid neitt; hvørt halda skyldi sáum sist, sama var enn þá fár oss víst.

37. Nú þegar myrkrid nóttin jók, ad nýu vedrid upp sig tók, med biljum stríðum brádt til sanns, á bøli valla gjørdist stans; hrædilegur — sem hrelldi géd — hræfareldur þar fylgdi med.

38. Ysdist þá aptur aldan stór, yfir oss sjódrif gánga fór; af eldglæríngum uggur stód — útleit flest allt sem væri glód. Tókum vér mjøg ad þreitast þá, því nærri sérhvør géta má.

39. Af sjódrifinu vorum vér, vída hvar ordnir skinnlausir, hreifingar illa þoldum því, þjakadir slikum hrakníng' í; en ef ad einhvør af sér dró, ad honum jafnskjótt kulda sló.

40. Veikjast nú gjørdi vonin lífs, en vaxa kvídinn dauda kífs. Omálga barn-

fugl — úngann minn, eg fól því Drottni sorgbitinn. Ekta kvinnu og alla með, er mig lífs hefðu gétað séð.

41. Afhuga þá eg orðinn var, øllum samskiptum veraldar. Blíðt því minn Jesúm bað eg hér, brotin øll kvitt að géfa mér, leiða mig héðan loks til sín, og láta eingan gjalda mín.

42. Í hjarta kom mér hugsun sú, harmandi þess eg minnist nú: hvað marga nótt til hvíldar hér, hafði Guð áður géfið mér; en eg ei þakkað þessa náð, því kjæmi mér nú hefndin bráð.

43. Til gjæðanna sem Guð oss hér, af gjæðsku hvørn dag meðdeilir, lítið opt finnst, á meðan má, misbrest ei líða neinn þar á. En þá þau vantar, allra best, hvað á þeim ríður, jafnan sést.

44. Útbrynja, Drottinn! ekki þig, í þinni grimd að straffa mig. Forsómun alla, Faðir! mín, forláti blessuð gjæðskan þín! Værðar nótt hvørja veit þú mér, verndarinn trúr! að þakka þér.

45. Jesú! þín kalda kvalanótt, þá kémur loks mín bana sótt, harmabót sé og huggun mín; høndin mig best þá styrki

þín, svo að upprenni síðar mér, sælu og dýrðar ljós hjá þér.

46. Allir samþykkir vorum vér, var það hin mesta gleði mér; hvør gjørði annaïs hressa geð, hvør fyrir øðrum biðja réð; sameiginlega settum traust, á sjálfann Guð með huga og raust.

47. Eg gjøri vissann einninn mig, að allir hinir hafa sig, best undir dauða búið sinn, og beðið Guð með vota kinn: miskun að veita sálum sín, sárheita fyrir Jesú pín.

48. Var það fulltrúa vonin mín, að vor Drottinn af gjæðsku sín, okkur mundi þá eilíft líf, eptir fullendað rauna kíf, øll-um til samans géfa greidt; girntumst vér þá ei fremur neitt.

49. En Guð ei hafði álíktað, okkur að taka þá í stað, héðan til sín í himna rann; heldur sér hægt álíta vann: að géfa okkur land og líf, en lína gjørvallt sorga kíf.

50. Um háskann eg svo hefi greint, á hafinu sem feingum reynt; fá skulum nú um frelsið mætt, framvegis heyra nokkuð rædt. Í stríði girnast flestir frið — fag-urt er skúra upprofið.

51. Nú sem var lidid nóttu á, nádi oss lýsa túnglid þá; ódeðurs lægdist ossa hríð, svo undir dag kom lognslund blíð; við lofuðum þá Lausnarann, sem líkn oss gésa slíka vann.

52. Eins sem mest kunnum orkað fá, allir til róðurs tókum þá, á leið sem hugðum landsins til, þó lítil vissum þará skil; albjartur dagur upp svo rann, oss mjøg sá hagur gledja vann..

53. En sem vér feingum fjøll að sjá, formerktum okkur vera þá, innar komna enn væntum vér; var það oss mest til bóta hér; landnorðurs kalda góðann greidt, Guðs fékk svo mildin okkur veitt.

54. Lángt hvað við vorum landi frá, leyfði ei birtan oss að sjá; segl-búa gjørðum svo í stað, og síðan héldum landi að, lendíng í Gérðum gátum náð, Guðs fyrir blessað hjálparráð.

55. Hefði Guð ei svo hagstæðann, heim aptur géfið birinn þann, ei síðara var okkur þá, með árunum til lands að ná; svo gjørði okkur vægja vel, vorkunsamt Drottins ástar þel.

56. Hugaulátleg mér viðtekt var, veitt í náúnga húsum þar, eptir þau hørðu hafs

umbrot, hørund var aumt en klæðin vot, komumst við svo um kvøldið heim, kynja stirðir af hrakníng þeim.

57. Hin skipin tvø sem hefi' eg téð, høfnuðu sig í Garði með, stendur orðinn, øðru í, einn maður var af voſi því; sama þau reyndu sjóvolk stríðt, sama Guð ann þeim frelsið blíðt.

58. Hið fjórða skip, sem hermt er frá, Hamars sund inn réð komast þá; best náði Guð því bjarga þar; — brim fyrir sunnan komið var, andast og hafði einn af þeim, er þeir svoleiðis fluttu heim.

59. Sjáum nú, hvörsu satt það er, sem í upphafi stendur hér; með dauðans ógn oss Drottinn sló, en dásamlega leysti þó; sá leingi móti erfiðt á, undanhald kann um síðir fá.

60. Agjætis vel um efni það, Elíphas hefir prédikað: „hvörn Drottinn tiptar, sæll er sá, — sorga-því náð hans eyðir-þrá — af ser hørmúngum sviptir þér, sjøunda þig ei heimsækir".

61. Sama um þetta segja réð, Samúels móðir einninn með: „deyðir og lífgar Drottinn hér, dásemd hans prísa verðugt er,

nidurfærir til heljar hann, hérmed og apt-
ur lífga kann".

62. Utsegja þad kann einginn hér, almætti
Guds hvad mikid er; Höfudskepnurnar hlýda
því, herma þad dæmin fyrn og ný. Líka
standur í hendi hans, högum ad ráda sér-
hvörs manns.

63. Hann til sjáfarins segja kann, sjálf-
ur um þetta ræda vann: „Læt eg þinn ofsa
lægjast nú, lengra en hingad kémst ei þú,
strax skulu bylgjur stoltar þín, stillast og
hlýda bodi mín".

64. O, hvörsu þessi harma tíd, hefdi nú
mörgum ordid stríd! og margt útflotid ángu-
urs tár, ef allir hefdu daudans fár, hlotid
sem fengu hrakníng þann? hag sinna næst
hvör géta kann.

65. Þökk fái Drottni þída tíd, þannig
sem nád hans hugga réd; hann midt í reidi
minntist sín, á miskun þá sem aldrei dvín;
þó ángurs feingi margur mód, minna vard
af enn hér til stód.

66. Lífgjöf nú Drottni launum vær, lofi
hann hvör sem orkad fær, til þess hann lént
oss fjörid fékk, þá fárid daudans mest á-
gékk, því Davíd segir: „daudir hér, dýrki
hann ei, sem vonlegt er".

67. Eg prísa, Drottinn! elsku þín, að þú þá sviptir heljar pín, sem að á skipi meður mér, máttu þann hrakníng reyna hér; þó bölið strángt oss bæri að, bætt hefir allt þín gjæðska það.

68. Lofgjörðar fórn eg færi þér, fyrir þá aðra líka hér, sem þú bjargaðir sama sinn, úr sömu þrautum, Herra minn! óverðugt þakkar offur mitt, ekki forsmái veldið þitt.

69. Eg fel svo þinni ásjá enn, alla guðhrædda fiskimenn, sem hrekjast bylgjum hafsins á, Herra! kénn þú í brjósti um þá, hvört sem þú lætur líf eður deyð, lyktun á gjöra þeirra neyð.

70. Lasin leirflaki líkamans, loks þá forgánga skal til sanns, hafróti dauðans hörðu í, hjálpa oss, Guð! að mæta því; sjálfur þú vora sál leið þá, til sælu hafnar himnum á! Amen.

# Iðrunar Sálmur,
sem inniheldur 7 Andvarpanir syndugs manns.

## 1ta Andvarpan.

Opinber syndajátning og audmjúk líknarbón.

Lagid: Líknarfullur Gud og gódur.

1. O Gud, og Drottinn allsvaldandi! eg kém nú til þín sárt harmandi, synd mína hvør nú ordin er, ofþúng mikils til byrdi mér.

2. Aldrei skal eg af því láta, audmjúklega brot mín játa; því sá sem lækníng fús vill fá, fyrst um sjúkdóminn kvarta má.

3. Um fótskør þína' á allar sídur, ormur syndugri valla skrídur; er því vel maklegt, ad mér nú, af henni burtu spyrnir þú.

4. Eg hefi svo morg afbrot framid, í frá barnæsku vondt mér tamid; helst því mín forþént hefir sál, helvítis eilíft kvala bál.

5. Allskonar lýtum er eg þakinn, aumur, voladur, blindur, nakinn; er því réttvíst, ad útskirpir, af þínum munni, Drottinn! mér.

6. Sem Manasses af megnum trega, mælti og bar sig hörmulega: „Sandinum fleiri synd er min", sama mér þreyngir andar þín.

7. En þó það afbrot yfirtekur, sem ángur þetta hjá mér vekur, og allt hvað illt eg illt af því, er það mér huga ferskast í.

8. Sjá þú, Guð! hvörsu sárt eg harma, og sundurbrotnum vængi barma: af því að sitin föst er mín, forsmán eg líð og sára pín.

9. Samvitskan bítur, sárið blæðir; Satan ákjærir, lögmál hræðir; hjástoðin dvínar, hörmúng lýr, heimurinn fagnar; lukkan flýr.

10. Nú flý eg meðan náðin stendur, Niníve eins og innbyggendur, nádugi Guð! á náðir þín; náðþyrstri sálu líkna mín.

11. Fyrst þú vilt ekki frá þér reka, fáráða, er sig játa seka, og gánga hreint við glæpum sín, grátandi flý eg nú til þín.

12. Allskonar vill mig ángrið beygja, engum hefi' eg nú til að segja, eilífi Drottinn! utan þér. — ó; brunnur líknar! svala mér.

13. Allt gott sem hafði eg af þér hlotið, er nú með syndum af mér brotið;

Avi! hvad er í allann stad, aunkvunar verdt ad hugsa um þad!

14. Hvørt sem eg gjøri huga renna, harma vill kvídinn sárt mig spenna; í flest øll skjól er fokid nú, Fadir himna! þad álít þú!

15. O, hvad margt bøl mig gjørir græta, græt eg þad tjón er síst má bæta, bæta, Gud! virdstu meinin mín, mín ønd svo prísi gjædsku þín.

16. Eptir mikilli miskun þinni, miskuna, Drottinn! sálu minni, og afmá syndir allar mín, eptir mikilleik nádar þín.

## 2ur Andvarpan.

Syndarinn klagar sína eymd, andvarpar og hrópar um hugsvølun.

1. Oteljanleg mín er nú mæda, undin hørmúnga sárt vill blæda; Jesú, gódi meistari! mér, miskuna þú og líkna hér.

2. Horfin er flest øll heimsins blída, hlýt eg adkast svo margt ad lída; lít þú því, Jesú! ljúft til mín, líknar blessudu augum þín.

3. Vinir sem fyrr eg vel nam trúa,

vilja nú flestir frá mér snúa; fáradann þó ei forlát mig, fyrst eg treysti nú best á þig.

4. Eg er sem fugl á kvisti kúrir, kveinandi sárt, — því neydin stúrir — hrakinn í burtu hreidri frá, húss = þekjur eymda kominn á.

5. Í hrekkjafullum heimsins glaumi, hrekst eg eins og tré fyrir straumi — edur sem það í stormi strá, er stadar nema hvørgi má.

6. Syndin mín slíkum voda veldur, veldur hún því ad eg er hrelldur, hrelldur er skjaldan hugur hýr, hýrt ei veröldin ad mér snýr.

7. Vid saud mér þann má samanlíkja, sem frá hjørd hefur gjørt ad víkja; á herdum þínum, hyrdir minn! í hagann sjálfur ber mig þinn.

8. Eins og hjørt lángar eptir vatni, — ad honum þar vid mædan batni —; ønd mína þyrstir eptir þér, ó brunnur líknar! svala mér.

9. Sem hundtík flýr ad herra sínum, hænist eg nú ad fótum þínum — miskunar virdstu molann þinn, mér einn ad géfa, Jesú minn!

10. Þú veitst eg hefi af hrøsun minni,

hjarta kramid og dapurt sinni, sem barnid gott er hrædt og hryggt, þá hefur þad sinn fødur styggt.

11. Þad flýr til hans og fer ad gráta, framdri synd gjørir á sig játa, bidur um líka og lofar ad, leingur ei skuli gjøra þad.

12. Uppá þin ord og elsku dádir, eins flý eg, Gud! á þínar nádir; Sonur þinn heita síst eg má, samt lát mig þræls þíns kjørum ná.

13. Virdstu mér aumum vesæ'íngi, ad veita blessad lids fulltíngi, sem uppá kvakar elsku þín, allt eins og barnid módur sín.

14. Undir skjól = vængi skrid eg þína, skúrirnar medan ekki dvína, sem hænu úngi hrakinn mest, hjúkradu mér þar, Jesú! best.

15. Eg verd því hæli ofur feginn, þá adslæst mesti rauna treginn, til hjálpar mér og huggunar, hvad sem ágeingur, ligg eg þar.

16. Eptir mikilli miskun þinni, miskuna Drottinn! øndu minni, etc.

---

## 3dja Andvarpan.

Eptirdæmi þeirra sem fallið hafa og feingið náð, tilfærir sá trúaði í sinn auðmjúk-ann bænar kveinstaf fyrir Guði.

1. Hrasaður ligg eg hlaðinn sárum, heitum fljótandi í sorgar tárum; ó Jesú! mýk þú undir mín, Oleo meður náð-ar þín.

2. Allir sem eru þúnga þjáðir, þreittir og heims af böli hrjáðir, í hjá þér finna einkalið, andar hræríng og sálar frið.

3. Með klökkum til þín kém eg huga, sem kvinnan sú hin bersynduga, viljandi fæt-ur þínar þar, þvo meður tárum iðrunar.

4. Sá hefur á þér miklar mætur, sem margar skuldir þú forlætur; fyrst þú upp-géfur mikið mér, mikið lát þú mig unna þér.

5. Klæðafald þinn' eg kém að strjúka, sem kvinnan sú hin blóðfallssjúka; æ lát krapt gánga útaf þér, ó Jesú! til að bjarga mér.

6. Af undum kraminn andar minnar, eg ligg við díki náðar þinnar, og gét n…

bjørg mér einga veitt — af slíkri krøm er hjartad' breitt.

7. Yfir gjørvallar undir mínar, opnadar fyrir benjar þínar, breid þú, Lausnari blídi minn! blódugann píslar fadminn þinn.

8. Vid ástar tillit augna þinna, idradist Pétur glæpa sinna; eins lát þú nádar ávarp þitt, ilja og hræra hjartad mitt.

9. Í nád leit Gud til øndu minnar, af stærd misknnar bittu sinnar; til eptirdæmis er þad skéd, um sig Sánti Páll mæla réd.

10. Davíd þá misgjørd sjá réd sína, sárlega hann kvaldi hjartans pína, fann hvørgi ró né hvíldarstad, hørmulega sér vægdar bad.

11. Í mínu holdi er einginn fridur, ógnan þín hardt mér slær nú nidur: gakk ekki í dóm vid þrælinn þinn, því eg er sekur, Drottinn minn!

12. O Jesú! veit mér idran slíka, því eg vil hjartans feginn líka, med sárt kveinandi sorgar raust, synd mína gráta hræsnislaust.

13. Ræninginn hlid vid hægri þína, hjálpar þig bad fyrir øndu sína; honum því gjørdist vistin vís, vegleg med þér í Paradís.

14. Einn þræll í ánauð andar sinn:r, ætlar því góðs til náðar þinnar; af því svo mørgum áður þú, aumum sýnt hefir hjálp og trú.

15. Í þeim brunni vatn aldrei þrýtur, af honum hvað mørg lind sem flýtur: sú sól, mannraunum øllum í, upp hvørn morgun oss rennur ný.

16. Eptir mikilli miskun þinni, miskuna, Drottinn! øndu minni — o. s. fr. v.

## 4da Andvarpan.

Sálin heldur áframm í bæninni, og lætur í ljósi, hvørsu henni þykir náðin þess sætari sem neyðin er sárari.

1. Eg er sá þjón — og það má skilja — sem þekkti gløggt míns Herra vilja; en féll þó blindni ærna í, ótal høgg má eg líða því.

2. Þegar eg hér um þegja vildi, og þeinkti brot mitt hulið skyldi; — sem gjørvallt þornar sumri á, svo urðu mínir kraptar þá.

3. Hæg þú, ó Guð! á hegníng þinni, hegn mér ei eptir illgjørð minni; lát reiði

fylgja miskun með, marin þú beinin aptur gleð.

4. Lát Jesú kvöl og krossins dauða, kveinstaf, forsmán og dreirann rauða, gylda fullt fyrir glæpi mín, Guð minn! í náðar dómi þín.

5. Einginn til smánar orðið hefur, um það raunin best vitni gefur, eilíflega sem uppá þig, í ángistinni reiddi sig.

6. Iðran og synda kvittun kjæra, komstu, minn Jesú! oss að færa; heims. því um bygðir allar á, útberist gleði hljómur sá.

7. Allir blóðdropar eru þínir, einka lausnar dýrgripir mínir, og svo mörg und sem á þér var, innsigli minnar velferðar.

8. Að þér þú tókst með tryggum huga, Tollheimtumenn og bersynduga: það var þitt yndi helst í heim, að hafa samaumkvan með þeim.

9 Af því þeir heitast á þig trúðu, og sem fegnastir til þín flúðu, er hrasað glæpi höfðu í, og hlutu forsmán útaf því.

10. Því sá eð gjörir svángur þreya, af sætleik matar helst kann segja, og hvað gott finnst að svala sér, sá einn veit best sem þyrstur er.

11. Hugsvölun mest sá metur blíða, sem

mesta verdur sorg ad líða; høfninni fagnar helst ad ná, hvaßvidri. fyrst er reyna má.

12. Hvíldar yndælis helst kann neyta, sem fyrr sig hefur gjørt ad þreyta; um batann vænast þykir þeim, er þýngstur sókti krosßinn heim.

13. Frelsinu mestann forprís gefur, fángi sem ádur verid hefur: sá daudans vefst í voda hér, veit best hvad dýrmætt lísid er.

14. Lofsaung eg vil þeß fegri færa, Frelsari! þínu nafni skjæra, úr stærri sem ad eymdum hér, almættis hønd þín bjargar mér.

15. Því þeir sem burtu frá þér fara, fordæmdir medur djofla skara, í díkis heljar dimman stíg, Drottinn minn! aldrei lofa þig.

16. Eptir mikilli miskun þinni, miskuna etc.

## 5ta Andvarpan.

Huggun af þeim fegurstu Guds fyrirheitum.

1. Eg vil, minn Gud! af ordi þínu, til yndiß draga hjarta mínu, fyrirheit þín vid fallinn mann, feginn ad smakka sætleik þann.

2. „Syndugs eg mannsins síst vil dauda, né sálar tøpun gjæfu snauda, svo víst sem lifi sjálfur eg,“ segir Guds mildin eilífleg.

3. Þó syndir manns um haf og haudur, hér séu ad lit sem farvi raudur; eg vil þær líkt sem ull og snjó, aptur sárhvítar gjøra þó.

4. Til endurbóta ydar saka, eg vil stein-hjartad burtu taka, en aptur géfa annad nýtt, ástúdlegt, hógvært, gott og blídt.

5. Nær syndarinn frá vondum vegi, víkur og gjørir hvad eg segi; misgjørdum hans af ástaril, øllum til fulls eg gleyma vil.

6. Hvørt skal eg mínum huga snúa? hvar er mín stærsta lyst ad búa? hjá þeim sem ordin hrædast mín, og harma jafnan glæpi sín.

7. Aptur til mín med ángri snúid! — ydur því sálargrand er búid, — eg vil þá líka einnin mér, til ydar snúa í miskun hér.

8. Á reidi minnar augabragdi, all-litla rækt eg vid þig lagdi; en í gjædsku mikillri mín, mun eg þó aptur vitja þín.

9. Á þeirri tíd skal øllum kunnur, í Jerúsalem standa brunnur, syndanna allri sourg-un mót, sønn mun þar finnast heilsubót.

10. Ef hinn ránglátí af illsku lætur, ill-virkinn sína hugun grætur, mun Gud þeim lausn og miskun tjá, því mikil nád er honum hjá.

11. Syndugum manni yfir einum, sem

idrast þó af huga hreinum, Guds fyrir Einglum gjörast skal, gledin tvøføld í himnasal.

12. Illsku hvar þekking yfirgnæfir, í audmýkt hjartans svo sem hæfir, øllu framar í ást og dád, yfirgnæfir þó Drottins nád.

13. Þinn Aldingardur er med slíkum, alsettur blómstrum kraptaríkum, þessi lífgrøs vid meinin mín, mjúkt bid eg leggi høndin þín.

14. Eg hefdi í ánaud fyrirfarist, og fjandans ógn ei gétad varist, ef ordid, Drottinn! ekki þitt, endurnært hefdi hjartad mitt.

15. Þad er ljómandi leidarstjarna, líf og sælgjæti þinna barna, lát þad af breidum lasta stig, leida í himna sælu mig!

16. Eptir mikilli miskun þinni, o. s. frv.

## 6ta Andvarpan.

Hinn syndugi kvartar yfir veikleika sínum í trúnni og bæninni, og kastar sinni tímanlegu áhyggju uppá Gud.

1. Veik er mín trú og vogar eigi, ad vænta lids á mótgángs veigi; því óverdugur eg svo er, ó Jesú! kom til hjálpar mér.

2. Ei gjør þinn línkveik út ad sløkkva, ei

lát marinn reir sundurhrøkkva! skjálfandi varir vonar mín, ven þú á nádar brjóstin þín.

3. Eg trúi, Herra! en hjálpa minni, hugveikri trú í ánaud sinni; sýn mér med Thóma sárin þín, svo endurlifni trúin mín.

4. Bænar=mig líka brestur = anda, bæn mín er stird og kø'd ad vanda; bænartár fyrir blódug þín, bænar ord heyrdu, Jesú! mín.

5. Þú hefur kénnt mér best ad bidja, bidjandi gjør mig einninn styrkja! styrkji bænar máttleysi mitt, midt í neydinni, hjálpráð þitt!

6. Il veit med anda og ordi þínu, ískøldu hjarta í brjósti mínu, fyrir þitt sveita blessad bad, brádna nú lát í sundur þad.

7. O Kriste! lát þú krossbæn þína, kjósa grid fyrir øndu mína! sem í því játar seka sig, med synd ad hafa móðgad þig.

8. Nær horsi eg fram á harma veginn, hásfkann eg sje þá øllu meginn; haldtu því, Gud! í hønd med mér, hníg eg strax, efad sleppi þér.

9. Hneig þú þíns Smurda hjarta og sinni, til hjástodar í naudsyn minni! ann'ra gudhræddra elsku géd, uppvek þú mér til hjálpar med.

10. Þó á nú horfist óvænlega, til upp=

reistar á marga vega; ei samt er stuttur armur þinn, ef þú vilt hjálpa, Drottinn minn!

11. Sömu um þetta segi' eg orðum, sem Davíð hriggur mælti forðum: „Hér em eg, Guð minn!" gjörðu mér, hvað gèðfeldast er sjálfum þér.

12. Þó veröld mig og mína lasti, meður sífeldu bölz atkasti, veitstu best hvað menn vinna til, að vera hennar bára spil.

13. Þeim er svo til mín tala illa, og tíðast hóp þann gjöra' að fylla, fremur enn hefi' eg forskuldað, fyrirgéf þú best, Drottinn! það.

14. Lát eingan minna glæpa gjalda, en géf þeim umbun þúsundfalda, á mínum sem að eyða stig, aumka, hugga og styrkja mig.

15. Einn vatnsdrykk þeim á efsta degi, ógoldinn verða lát þú eigi, af góðu þeli géfinn mér, gleddu þá eins í dýrð hjá þér.

16. Eptir mikilli miskun þinni, o. s. frv.

## 7da Andvarpan.

*Sálarinnar sárheitt ákall til Drottins.*

1. Enn kém eg til þín andvarpandi, ó, Drottinn! synda spenntur bandi; Höndin

mín hefur hneixlad mig, og hrædilega móðgad þig.

2. Lát þér þrábeidni' ei leidast mína; ligg eg vid nádar fætur þínar; og þadan ekki fyrri fer, enn fæ eg ádur sátt hjá þér.

3. Eg er nú hræddur af þeim ordum, er þú taladir, Drottinn! fordum; því þau hæfa svo hardt á mig, sem hefi lítils aktad þig.

4. „Af því þú gégndir ekki minni, advörun fyrr í velmakt þinni; í neyd ef spyr þú eptir mér, ei vil eg heldur gégna þér."

5. Ef þetta skal nú á mér rætast, og til réttvísrar hefndar mætast — ó, hvad skélfileg er sú þín, ad falla í reidi-hendur þín! —

6. Ef sá réttláti nemur nærsta, naumlega' ad flýja vodann stærsta — hvar mun þá standa aumur eg? ógudlegur á margan veg.

7. Drottinn! vert ei til dóms mér strídur, drág þú þitt reidi-sverd í slídur! ei legg baudlega, or á streing — aptur í nád mér þig samteing! —

8. O Jesú! væg mér aumum manni, sem ofbýdur vid kvala banni; og lát ei allt þad afgjørt er, í ríkja nú til hefndar mér.

9. Þess mun þig, Drottinn! idra eigi, á himnum þá eg lof þér segi; ad þú hér hefur aumann mig, aptur tekid í sátt vid þig.

**10.** Ekki mun við það verða minni, veg=semdin þín í eilífðinni; þó bandíngjanum bjargað nú, burt úr fángelsi hafir þú.

**11.** Hvørt á eg, Guð! að flýa' og fara? ef frá þér viltu burt mér snara, hvar á eg liðs að leita þá, ef líkn ei gjørir þú mér tjá?

**12.** Fyrst hvørgi nema hjá þér einum, er hjálp og bót við øllum meinum, og eg bið eingann utan þig, ó, hjartans Faðir! bæn=heyr mig.

**13.** Sá bjargar best, er best oss géfur, sá biður helst er ekkért hefur; alls er þurfandi øndin mín, allt er veitandi høndin þín.

**14.** O Jesú! virðstu málið mýkja, og mér þinn skjól=væng undir víkja! bráðt, ef þinn Faðir býr til sig, í bræði sinni að deyða mig.

**15.** Því ef þú hels úr hættu banni, hjálp=ar lífþrota sakamanni; sína lífgjøf að þakka þér, því framar honum skyldugt er.

**16.** Ei máttu sleppa af mér hendi, þó agir þú mig straffs með vendi, ó hvørsu sárt það ángrar mig, ef aptur skylda' eg missa þig.

**17.** Høndina seka, Herra! mína, hønd fyrir gégnum stúngna þína, í sátt og vingan aptur tak, ó Jesú! heyr mitt bæna' kvak.

18. Þó hér eg reyni mædu marga, mér virdstú, Drottinn! aumum bjarga, helvítis kvala høggstokk frá, himnesku frelsi mig lát ná.

19. O Gud! lát frí af øllum vanda, ávaxtarlausann fausk þinn standa, enn nú eitt ár í akri þín, ávinni þad nú Jesú pín!

20. O Drottinn! hjálpa øndu minni, eg mig fela vil hjástod þinni, ó Drottinn! loksins unn þú mér: eilífa' ad hljóta vist hjá þér!

21. Uppá þessa andvarpan mína, árnan, minn Jesú! skrifa þína, svo hún med fridi fái nád, fyrir hátróni Drottins, nád.

22. Eg er nú sídast umbidjandi, ó, þú heilagi Guddóms andi! ad þín framgángi fyrir mig, fridar bón óumrædileg.

23. Heidur, vald, speki og eilíf æra, af øllu því sig kann ad hræra, sé þér, minn Jesú! søgd og skírd, sídar og hér í himna dýrd. Amen.

---

# Erfiljód.

## 1. Utfarar = Sálmur

eptir úngbarnid

Valgérdi Þorgeirsdóttur

eldri,

orktur af Födurnum 1752.

Lagid: Kom Andi heilagi.

1. Ó Jesú! lífsins ljós, lind svala besta, útvaldra einka hrós, og unun mesta.
2. Í þinni ástarhønd, er líf og dauði = þína, þó þjáist ønd, þú geymir sauði.
3. Af lífi módur mig, án meina leiddir, trygdrikann tédir þig, tjóni lífs eyddir.
4. Á fætur eg svo drógst, undir vernd þinni, því allt mér þú tilbjóst, þørf eptir minni.
5. Anda þíns upplýsing, unnti mér bædi, ágjæta uppfræding, og æru gjædi.

6. Eptir lét einnig mér, þitt elsku-lyndi, blessað, til hjálpar hér, hjónabands yndi.
7. Litfögur lilja ný, lífs gjædd með rádi, þeim aldingardi í, uppvaxa nádi.
8. Ung dóttir var það ein, í heiminn borin, fædíngar frjáls vid mein, frá módur skorin.
9. September telja tók, tuttugu og átta, ártal Krists eptir bók, innan Ríms gátta.
10. Eitt þúsund, einnig sjø, øld hundrud taldi, fimmtýgi' og til med tvø, tíd þá Gud valdi.
11. Var henni skírnar skraut, skeinkt svo med blóma. Valgérdar heiti hlaut og helgann sóma.
12. Afþvodist erfda synd, og illsku kraptur. En Herrans heiløg mynd, henni gafst aptur.
13. Andlegann æru krans, ødladist bædi, og blída Brúdgumans, blódlitad klædi.
14. Hann leit til hennar hýrt, hann fadminn breiddi, hann frambaud hjálprád dýrt, hann saurgun eyddi.
15. Michaels messudag, sú miskun skédi, sveit Engla svoddan hag, samgledjast rédi.
16. Eg gladur, ødrum hjá, af þeirri mildi, þakkadi Drottni þá, þó ei sem skyldi.

17. Fullþakkad frídt um lád, eg fæ ei þetta, svo skjæra skírnar nád og skøpun rétta.

18. O Gud! hvad øll þín verk, undarleg greinast, og hjálpar hønd þín merk, holl vill ofs reynast.

19. Lofi þig lífid mitt, leyst bøls af módi, lof aldrei linni þitt, Lausnarinn gódi!

20. Nærdist svo líkt sem ljós, lífs mædu kafin, þessi mín rjóda rós, í reifum vafin.

21. Þángad til þóknadist, þríeinum Gudi, ad hlyti himna vist, hún med føgnudi.

22. Heim leiddist hún svo þá, af hrygdar vegi, þridjudag fimta frá, fædíngar degi.

23. Svo burtfell blómstur þad, því blés Guds Andi, oldúngis upp visnad, af sínu landi.

24. Svo biturt daudans beit, broddurinn hardi, ad lífs upp lilju sleit, úr lystigardi.

25. Svo var þad litla líf, og ljós útslokid, dapurlegt daudans kíf, þess dug fékk lokid.

26. Einka eg dóttur á, eptir ad líta; orsøk mér aukast má, ad harma og sýta.

27. O Jesú! á mig lít, í miskun þinni. Angurs-bønd af þú slít, ønd hreldri minni.

28. Þú burttókst þad sem var, þitt, en mitt ekki, og styttir eymdirnar, eg nád slíkt þekki.

29. Þú grát og gledi jókst, gleymt ist því tregi, þú gafst, og þú burt tókst, þér lof eg segi.

30. Ur þessum eymdardal, inn hana leiddir, í háfann himna sal, henni veg greiddir.

31. Barnsképnan blessud mín, burt er nú hédan; eg þakka elsku þín, þann afgáng skédann.

32. Hana ei heimur kann, ad hrekja lengur, né ángra armædan, sem ad oss gengur.

33. Líkid í sínu sætt, svefn-húsi hvílir, önd lamb Guds einka mætt, á himnum skýlir.

34. Hún prísar Herrans dóm; hún Jesúm lítur; hún Engla heyrir hljóm; hún sælu nýtur.

35. Hrellir oss hörmúng hér, holdsins umsvifa; því skémtun eingin er, ordin ad lifa.

36. En þar er endalaust, indælid sæta; Guds Engla gledirausst, gjörir oss kjæta.

37. Hér er stríd hrygdar hætt, og holds svikrædi; en þar er sigur-sætt, súngid lofkvædi.

38. Hér Satan sífeldt vill, sálina fánga, þar kann hans ánaud ill, oss aldrei stánga.

39. Hér dæmin heimsins verst, oss hneyxla tídum; þar ekkért saurugt sjest: vér synd ei kvídum.

40. Hér Guds börn forakt fá, furdu opt

hljóta, en þar er upphefd há, sem allir njóta.

41. Hér mædir sorg og sótt, og sídast daudinn; þar heilsu hefur drótt, heims burtu er naudin.

42. Lengi ad lifa hér, er lengi' ad stygg-ja, sinn Gud med syndum hér, og sálu hryggja.

43. Er því best æ sem fyrst, í Gudi deya, ávallt skal önd mín tvíst, þar eptir þreya.

44. O barn mitt! ei til mín, aptur þú kémur, heldur mig heim til þín, hédan Gud nemur.

45. Sælunnar samfund þann, sá okkur géfi, sem heldur himna rann, og hörm-úng sefi.

46. O Jesú! allt þitt rád, er mér til góda, skal eg því lífs um lád, þér lofgjörd bjóda.

47. Eg á nú sád-korn eitt, í akri þínum; holl er því hægdin veitt, í hjúpi sínum.

48. Alls holds nær eitt sinn á, upp-risa sannast; vid korn staung virdstu þá, í vægd ad kannast.

49. Svo nær hún samteingd er, sálu

á þeim degi, um eilíf ár með þér, sér una meigi.

50. Við mig æ verði þinn, vilji blessadur, nú og í sérhvört sinn, svo dey eg gladur.

51. Þínum oss þjónum ber, þitt lof margfalda, aukist það eins af mér, um aldir alda. Amen.

## 2. Utfarar = Sálmur

eptir úngbarnið

### Markús Þorgeirsson.

Lagið: Líknarfullur Guð og gódur!

1. En hefur þú nú, Guð minn gódur! géfið mér barn af sinni módur; einni svo kornstaung aukið við, útvaldra sálna bindinið.

2. Skøpun háleita og skírnar gjæði, það skrautlegasta brúdkaups klæði, af skjærri náð þú skénktir því, skín það nú slíkum búning í.

3. Eins og það barn mér ádur léntir, ørmum gjæðskunnar þetta spenntir; af því manngreinar álit er, ekkért, minn Drottinn sæll! hjá þér.

4. Fyrir þess fæding vil eg vanda, vegsemd háleita þér til handa, aldrei ofmargir eru þeir, sem auka lof þitt síðar meir.

5. En sem þú tédir elsku þína, í heim ad géfa barnkind mína; úr honum svo það aptur vel, ástar þitt blessad leiddi þel.

6. Tvennar sjø vikur tals á ládi, í tilsjón þinni lifa nádi; vóx upp sem blómstur velskapad, visnadi líka einsog það.

7. Angur hans allt svo endast rédi, en eilíf vidtók himna gledi; því honum upprann sælu-sól, sunnudag næstann fyrir Jól.

8. Á þeirri hátíd ord Guds boda, augunum trúar, mér ad skoda: ad hluttakandi er Herra minn, holds og blóds eins og smábørnin.

9. Á henni þeirra Englar súngu, einka fagurt med hug og túngu: „dýrd í hædum, fridur á fold, og Føðurs ást vid mannlegt hold."

10. Á henni svo mig um það frædir, Esaías og þannig rædir: ad oss nú géfinn sonur sé, og sveinbarn fædt af Jómfrúnni.

11. Ungbarna dýrstur er það sómi, og indælasti Jóla-blómi: ad ljúfur Jesús líkur þeim, án lýta fæddist hér í heim.

12. Enn vér til fulls nú ekki sjáum, af

Jesú holdgan gott hvad fáum; andlega því ad erum hér, allt eins og børnin fávísir.

13. En í háskóla himna dýrdar, heyrast dásemdir þær, útskírdar; úngir og gamlir eru þá, í því fullnuma Drottni hjá.

14. Þar er indælid þúsundfalda; þar er gladværd um aldir alda; þar einkis framar þurfum vid, þar er Gud allra fulltýngid.

15. Njótandi slíkra nú er gjæda, nád fyrir Guds, í dýrd upphæda: blessadur þessi barnfugl minn, bródur þar Jesúm lítur sinn.

16. Eilífa Júbil=hátíd heldur, hans sála þar og lofstýr géldur, Syni Guds fyrir fæd=íng hans, og fridþægíngu syndugs manns.

17. Ei þarf hann lengur ánaud stríða, né adkast heimsins med mér líða; hann er frá allri hættu frí, høndunum Drottins geymdur í.

18. Ungbørnum himna — eilíft — ríki, eignar vor Jesús þeirra líki, hann fær þad líka fljótt ad sjá, fagnandi Lambsins stóli hjá.

19. Fødur nafn mitt hann fékk ad hljóta, fær nú hans sál eins annars njóta, sem eng=in þekkir utan sá, er þad medtekur Drottni hjá.

20. Offnemma þó hinn úngi deyi, alinn á sønnum dygda vegi, er samt í rósemd

øndin hans, ugglaus í bygðum himna ranns.

21. Af því hans sál var geðfeld Guði, gjæð svo bráðt varð hún þeim fögnuði, að hún þar skuli um eilíf ár, allt verða laus við sorga = fár.

22. Því hér í heimi er hættan mesta; holdið og Satan villa flesta! sá er því sæll, sem fyrstur fer, í farsæld þá sem eilíf er.

23. Svo vel Guð opt við sína breytir, sálar eilífann fögnuð veitir, til farsælasta fulltýngis, fyrr enn þeir sjálfir óska þess.

24. Hann lætur börnin barna sinna, barns á aldri þá gjæfu finna, og til sín aptur fara frí, fyrr enn þau kvolast veröld í.

25. Þar fyrir, Drottinn! þig eg prísa; þitt sé vegsamað ráð alvísa: að létst barn= úngannekki minn, á mis fara við kjærleik þinn.

26. Umsorgun hans réðst af mér taka, kann ekkért hann nú lengur saka: andstreymi hefði hann átt með mér; en unaðsemd er nóg hjá þér.

27. Í öllum þrautum æfi minnar, eg vona svo til náðar þinnar, að mér hann gésir apt= ur sjá, í himna = dýrð þér sjálfum hjá.

28. Þar er allskonar eptirlæti, unaðsemd,

heidur, lyst og kjæti; ei kann þar Satan orka nein, útvøldum Guds ad vinna mein.

29. Pángad mig, Drottinn! þreittann lángar; þar ekkért fremur bøl mig stángar; Barnfuglar mínir bádir þar, bada í rósum farsældar.

30. Eptir aflidnar ángurs tídir, í þann mig føgnud leid um sídir, svo heidri eg þig, Herra klár! hæst lofadur um eilíf ár. Amen.

## 5. Utfarar Sálmur 1752 *).

eptir Frú Gudrúnu Einarsdóttir,

Biskups Mag. Jóns Arnasonar.

Lag: Mitt hjarta! hvar til hryggist þú!

1. Dygdugri frú vid víntré vænt, vegna síns blóma fagurgrænt, ljóst hefur Davíd líkt; er þad lærdóms efni ríkt, ef menn fremur hugleida slíkt.

2. Fyrst: eins sem gott tré út af sér, aldini sætust frammleidir; svo kann og kvinnan, góð, bestann ávoxt bera þjóð, blóma sú med dygdanna stód.

3. Því meir vín = trénu þýngt sem var,

*) Prentadur aptan vid hennar Æfi = søgu. 1778.

því framar sætann ávørt bar; eins guðhræðð sál með-sann, krossins þýngð því fremur sann, fegri bera dygðirnar kann.

4. Í þriðju grein; sem vín-tréð víst, velblómgað tapar gjæðum síst; eins kvinnan æruflóm, uppriktug að allra dóm, aldrei fellir dygðanna blóm.

5. Í fjórða máta vitum vèr, að vínkvistur sá fluttur er, aldin-tré annað á; vøkva sinn kann fullvel fá, fyrri líka blómanum ná.

6. Eins þá menn dygða dæmið best, draga til sín og stunda mest, aptur það frjósgun fær, og svo líkt sem aldin grær, er þess blóma fegurðin skjær.

7. Svoddan víntré var herlegt hèr: húsfrú Guðrún Einarsdóttir, sætlega sofnuð nú; ágjæt Biskups Ekta-Frú, Arna sonar kolluð var sú.

8. Hennar mannkosta herlegt blóm, hennar guðhræðsla dygða fróm: ørlætis iðkun frí, og þolgjæði þrautum í, þekkt er landsins orðið um bý.

9. Aldini þessi af sèr bar, í aldingarði kristninnar, háleitum heiðri með; sast afdrjúpa sæt þar réð — sem að gladdi mannanna géð.

10. Hún mátti kallast heiður lands; hún

var kóróna ektamanns — hún ávann allra hrós, hún var skjært í húsi ljós, hún var fögur dygdanna rós.

11. Af háfum ættum heidur bar, Herra prís verdum géfin var; en þó samt ágjæt mest, hennar dygdin sjálfrar siest, sem hún jafnan stundadi best.

12. Óþreittri medur árvekni, sitt andlegt bæna reykélsi, í trúnni tendra réd, sérhvørt kvøld og morgna med, mædu = þjád, ad vidhresøa géd.

13. Ord Drottins hjá sér lesa lét, laungum undir þess heyrn hún grét, hjart=heitri and=akt í, harma=léttir helst af því, henni spratt og svala lynd ný.

14. Abigael í ordum var, í húss = stjórn Martha røksemd bar; María gudhrædd mest; sem Tabíta tærdi best; trú hér hinnar Kanverska siest.

15. Kyrkju sína og kénnimánn, kostgjæfilega rækja vann, hús þar sem halda réd; audsýnt fékk þeim elsku géd, offur gód og skeinkíngar med.

16. Eins líka ødrum úti frá, ástríka þægd hún gjørdi tjá; hógvær og fús á frid; rækja þenna rédi sid, ríka bædi og fá'æka vid.

17. Síns ekta=herra sóma vann, sífeldt stunda og virda hann; ást honum æ fékk téd, útfør hans og einnig med, ýfrid gjøra veglega réd.

18. Í því tilfelli eins sem bar, á dottinn vønd Guds hirtíngar, kyssti med ljúfri lund, sárt þó blæddi sorgar und; sjálf og bjóst vid heimferdar stund.

19. Undir Guds líknar útbreidt skjól, í audmýkt trúar sanníri fól, krossþjáda soninn sinn; af því sári sorgbitin, sat hún opt med tár=vota kinn.

20. Af ást til Guds hún audsýndi, undrunar verdugt þolgjædi, í hvørskyns harma þraut; leid og stríddi lífs um braut, loksins dýrdar kórónu hlaut.

21. Eu gódgjørdirnar utan stans, af elskunni til náúngans, framflutu fjær og nær; lynd af brunni líkt sem skjær, lángt og dreift sér útkvíslad fær.

22. Þannig framm gékk hún þýd í lund, þreyandi sína lausnar stund, frá heimsins hættu neyd; eptir lidid lífsins skeid, loksins hreppti sælann deyd.

23. Eg læt svo sagt um efni þad, sem adrir hafa sannprísad, med mjúkum mæla=

klíð; og um hennar ørlætið, orðum bæti fáeinum við.

24. Hún ásamt sínum herra með, heilsórar eignir skeinkja réð, af þeirra aflafé; er því skyldt það ágjæti, ekki verði dreigið í hlé.

25. Fátækum kyrkjum frúin gaf, fasta gótsi mørg hundruð af; þeim bréfum þíngslýst er, það eigendur þeirra hér, þakklátlega virða sem ber.

26. Aður sem gáfur ágjætar, Ísraels skeinktu høfdíngjar, fúsir á fremdar síð, mætt að byggja musterið; miklu Guðs því kønnudust við.

27. Eins Drottni þakklát sýndu sig, sjálfkrafa hjónin heiðurleg, af auð þeim áslaðist; gáfu því, sem gégndi best, Guðs til húsa nauðþurftar mest.

28. Hér næst tóku þau høfðíngs hjón, heiðursverdug að raun og sjón, mørg fátæk fósturbørn; trúskap þeim og trygga vørn, tjáðu nærsta mannveru-gjørn.

29. Létu í skóla sum til sanns, sumum komu þau utan lands, með gnóglegt gjald útreidt; sum frá henni giptust greidt, góts og jarðir fékk hún þeim veitt.

30. Ágjæti héldt hún áfram því, ekkju

þá stand var komin í, og ángrid aukast réd; samt var hennar høfdíngsgéd; hafa margir reynt þad og sjed.

31. Hún var þeim naudsyn allri í, eins og Rut fordum Nahemi, med atlot, ord og rád, vilja í og verka dád, vort sem best er kunnugt um lád.

32. Eins líka þau ad meiníng mín, sem módur henni unna sín, þó fræg sé fram stígin; ljóst er og ad margir menn, menjar hennar bera nú enn.

33. Líka svo breytti þýdt vid þá, þénustu hennar gjørdu ná, sveina og meyar med, slíka rausn og gjædsku géd, géta menn af dæmunum sjed.

34. Undan þó tek eg allar hér, ástmønnum skeinktar vingjafir, sem henni sýndu þægd; stóra héraf fékk hún frægd, forsvar gott og adstodar nægd.

35. Herrans blessan í hennar skaut, hans af gódgirni nógleg flaut; eins óspart út frá sér, lét hún renna, líkt sem ber, læki sinna velgjørda hér.

36. Svoddan ágjætis adnotid, allmørgum fleirum hefi' eg med, af hennar edla dygd, er mér fyrir utan stygd, ástar sýndi nákvæma trygd.

37. Í þriðju grein, eg enn fæ tjáð: ölmusugjörða fræga dáð, sem hún í sinni tíð, vorkunsöm og viðmóts þýð, veita réði fátækum lýð.

38. Nakinn að klæða víst hún vann; vel gjörði metta húngraðann; þyrstum réð svala sætt: föðurlausra bol fékk bætt, best og líka ekkjurnar kjætt.

39. Slíkra góðgjörða umbun á, upprisu degi mun hún fá, gjörla nær Guðs Son tér: minnsta gjört hvað mínum er, mig við tel eg framkomið hér.

40. Ó, þú dygðanna víneik væn, af vökva trúar sífeldt græn! þig tregar landsins þjóð! þú varst mér svo þæg og góð, þínum undir skugga eg stóð.

41. Ektabundinni mær og mér, margtéðar þakka' eg velgjörðir, ástúðlegt allt viðmót, og óforþént æru hót, af míns hjarta þýðustu rót.

42. Grundvöll til þess sem eg nú er, á eg að þakka sjálfri þér, næst góðri Guðs forsjá, þín svo bera merkin má, meðan foldu hrærist eg á.

43. Af því skal minníng aldrei þín, úr falla hug og hjarta mín, æ meðan er eg til; hana meður ástar il, út eg breiða kostgjæfa vil.

44. Á enda þinnar æfi mér, æra sú gafst, að komast hér, þénustu þína í, bestu dygða blómstur ný, barstú þá í standinu því.

45. Ó, hvað margt bænar andvarp heitt, af ángist lífsins mædd og þreitt, fyrir Guð fram þú barst! hjartað þá af hörmum skarst, hógvær samt og þolinmóð varst.

46. Allt er nú liðið eymda fár, øll eru runnin sorga tár, allt er nú bølið bætt, hold í jörðu sefur sætt; sál fær gleðin himnanna kjætt.

47. Þíns ekta herra sál mátt sjá, og sonar kjæra Drottni hjá; af eymd og ángist frí, faðmi Jesú føgrum í, fagnar þú af yndæli því.

48. Þitt tára sáðverk endað er, eptir á himnum síðan fer, uppskéran ununar, og farsællegs fagnaðar, fríðum Guðs í tjaldbúðum þár.

49. Lifir samt hjá oss lofstýr þinn, lifir þín ávallt minníngin; líf þitt sem ljós hér skín; en þó lifir øndin þín, allrabest hjá brúðguma sín.

50. Lausnara vorum lof sé nú, sem leidt hefur þá sælu Frú, úr hættri heims ángist, inní helga himnavist; Herra! leið oss þángað sem fyrst.

51. O Drottinn! vertú aðstoð var, að hennar mættum dygða spor, feta hér foldu á, svo vér lausir lífs við þrá, ljóma síðan meigum þér hjá.

52. Þeim sem deyandi dauðans kíf, deyddi en gaf oss aptur líf, sé dýrð og heiður hár; víðfrægjist um eilíf ár, æran hans og vegsemdin klár. Amen.

## Bænar = Sálmur

### í krossi og mótgángi.

Lagið: Ein kaunversk kvinna.

1. Gjæðskuríki Guð minn! gleðin sálar, Jesús! undir verndar væng þinn, vil eg flýa, Jesús! best um þína barnkind, í brjósti kénndu, Jesús! ó, þú blessuð lífs lind, líkna þú mér, Jesús! mitt í reiði minst á, miskun þína, Jesús! aumri veittu ásjá, öndu minni, Jesús!

2. Uppá blessað orð þitt, eg nú vona, Jesús! afbrot géf mér öll kvitt, ó minn góði Jesús! mín er trúin víst veik, veitstu slíkt, minn Jesús! líttlogandi línkveik, lát ei slokkna, Jesús! eg við fætur flöt þín, fáráð ligg, minn Jesús! sárt nú þyrstir sál mín, í svölun þína, Jesús!

3. Dýrstann fyrir deyð þinn, dýrðar herr=

ann Jesús! afgáng blessa mér minn, og mýk hans ofboð, Jesús! øll mín velferð á þér, einum stendur, Jesús! reynslu best, þá mest mér, makt á liggur, Jesús! óvinarins útslokk, eldleg skeyti, Jesús! svo eg megi þér þøkk, þíða færa, Jesús!

4. Ránglætis ei minnst mín, miklu heldur, Jesús! þeink á náðar nægð þín, í nauðum mínum, Jesús! styggt eg hefi þrátt þig, það mig ángrar, Jesús! seka taktu samt mig, í sátt, minn blíði Jesús! fyrir þína krosskvøl, kaun og dreira, Jesús! meinin øll og mitt bøl, mýkja vyrðstu, Jesús!

5. Uppá þetta eg vil, ó! minn sæti Jesús! búa mig sem best til, burt að deya, Jesús! til þín mína tak sál, treysti' eg þará, Jesús! nær sem þykir þér mál, því ræður þú, Jesús! hæga géf mér helsótt, hjálpari minn, Jesús! meður þinni minn þrótt, mildi styrktu, Jesús!

6. Náðir á eg nú þín, náðarfulli, Jesús! auma fel eg ønd mín, annast hana, Jesús! líttu nú, eg ligg hér, lágt, minn góði, Jesús! gjør við mig, sem gott þér, gjarnan þykir, Jesús! veit þú lokfins vel mér, við að skiljast, Jesús! svo um alda aldir, eg þig lofi, Jesús! Amen.

# Endurminning,

## Guðs náðar fyrir Krist og ákall um hjálp í armæðu þessa lífs.

Undir Auth. nafni.

Lagið: O Jesú! edla blómi.

1. Þökk sé, Guð! þinni mildi! þín elskan föðurleg, Soninn oss senda vildi, að sætta heim við þig, sú náð míg fíglедur, sá friður æ stoðar, í reiði, ó fadir! ei því slá þú mig.

2. Orð Guðs og ímynd sanna, vor Immanúel kjær, híngað kom hel að kanna, hætt þegar stóðum vær, dýr fæddist, fjærstöddum, fjør greiddist, sármeiddum, herleidda, hér gladdi, himins blóminn skjær.

3. Rauðu svo benja blóði, blíður úthellti hér, umvafinn ángurs móði, eins sem að ritníng tér, forrædi, fjør lúði, fár, neyð, og sár mæða, hér náðar, hír gjædi, hóf að géfa mér.

4. Guddóms af krapti klárum, koma réð síðan frá, Drottinn vor dauða sárum, degi þeim þriðja á; hann sigur vann víga, vinn eg því, ønn trega, sinn dug mér s[illegible]nfræga, sýndi reindar þá.

5. Eptir atburði slíka, uppsté með dýrð-

ar sið, sjálfur og settist líka, svo hjá Guðs hægri hlið, fødur, um frið dýrann, friður, og náð skjæra, biður, svo blíð tærist, bót á þrauta kliđ.

6. Í náð og elsku sinni, oss hét að vera hjá, og svo að sjá hvør kynni, sálargagn þetta fá, hann anda sinn sendi, sannindin kénnandi, enn stundar unnandi, øllum heill að tjá.

7. Réttlætis sólin sanna, sem í upphæðum skín, lífgjøf og lausnin manna, líkna þú kristni þín, þér gjæða hár heiður, hér greidist, trúr bróðir! úr neyð leys ørþjáða, ønd, og vanda, mín.

8. Mørg verður mannsins æfi, meiga það allir sjá, opt trúi' eg yfirgnæfi, ángur hvað vekja má, hír síst, því hvør treysti! hérvistin er næsta, skúr flest og fár mesta, falla vill oss á.

9. Aðstoðar eg þig beiði, ó Guð! eg treysti þér, heimsins á harma skeiði, hans þvíað reynist mér, vinátta, von pretta, vanmáttug raun hættu, dvín skjótt, þó sín hittist, fyrst því skárst hún er.

10. Reynt hafa rauna — tíðum, rigna Guðs vinir — ský, en þá í ángurshríðum, yfir má klaga því, brøtt leiðin, lítt gleður, ljótt

stríð, oss tíct mæðir, hætt skeiðið, hratt líður, heimi slæmum í.

11. Kriste, minn kjæri bróðir! kom mér til hjástoðar, einatt um æfislóðir, áðynja þrautirnar, hætt er, því hritt fári, hlítt nær, þú máttfarinn, léttfær svo brátt gjörist, gángur þreingíngar.

12. Uthelltum augnatárum, ássjá eg þína kís; hørmúnga hnekk þú bárum, til hjálpar mér uppris, æ veittu, ó Drottinn! í hættum nú léttir, svo kvittun sé grættum, synda á grandi vís.

13. Sorgar mind særða þína, til sjónar eg nú hef; hún sefar mæðu mína, meðan eg við hér tef — volæðið vel líða, vil glaður hel stríða, þolgjæðið þel-blíða, þar til mér þú gef.

14. Syndin mín sárum veldur, og sorga gjörir bað, hvar skal eg böli hrelldur, hafa nú griðastað? rót saka, sút eikur, sæt þykja, ljót brekin, nót svika, fót flækir, flest allt slæst mér að.

15. O Jesú! øndu mína, yfirbreið skjólvæng þinn, eg flý á arma þína! annað ei hæli finn; þitt ráð mig þýdt leiði, þitt lið mig mætt stoði, þitt blóð mig blídt græði, besti meistarinn.

16. Nauda við mæðu mína, meðan hér feta veg, liðsemd veit þú mér þína, þeinkja lát mig: að eg, stutt líf, og hraðt hefi, hætt kíf, því blídt sefa, þitt lofið, hátt hefjist, heill mín fullkomleg.

edur svo:

Nauda í mæðu minni, mitt skal nú hressa geð, best fær Guð barnkind sinni, blessaður fyrirsjeð, vor herra, ver fári, vær gjörum hér færa, þér æru, er tæri, allir snilli með.

## Þrjú Vers

undir nafninu,

## Guðrún Þórðardóttir.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

1. Gjæðskan þín Jesú eilíf er,
Ununar víst þú tilbjóst mér,
Drottinn, lát mig þín rækja ráð,
Ráði mér æ þín blessuð náð,
Unn þú mér nafns að njóta þíns,
Nákvæmast yndið hjarta míns!
2. Þér einum vil eg unna mest,
Orðið þitt læra og stunda best,

Ráfa þó hljóti í dimmum dal,
Deigja mig einginn kvídi skal,
Af því svo ríkt eg reidi mig,
Raungódi bródir! uppá þig.
3. Deya nær burt eg eittsinn á,
O gódi Jesú! vert mér hjá!
Tak mig þá þína tjaldbúd í,
Til þín mig jafnan lángar því,
Eg svo í dýrdar ríkum reit.
Rómi þitt lof med eingla sveit. Amen.

## Vers.

Lagid: Jesús Kristur ad Jórdan kom.

1. O Drottinn Jesú! eg mig fel, ætíd í høndur þínar, med lífi og sálu leid mig vel, lífs allar gøtur mínar, øllu til góds, mér illu snú, ef mig þad kann ad henda, inngáng minn blessa og útgáng þú, en þegar líf skal enda, lát þú mig hjá þér lenda. Amen.

## Vers
### útaf Fædíngu Krists.

Lagid: Stridsmenn þá høfdu krossfest Krist.

1. Huggunar strauma framrás fljót, fæd-

íngar Guds og manns, um innstu hjartans renni rót; raunmædda syndarans; Jesús nýfæddur, blessud bót, börnum Guds veittir krans, til þín komnum, þú tekur mót, trúar med gledi dans.

## Gideonis Reisi.

Dóm. b. 6, 30—40. sbr. Sálm. 72, 6.

Glæst í manndóm Guds son ber
Gideonis Reisi
Jólanótt á jördu hér
jötu í
dásemd ný,
öllum sprettur oss af því,
og inngángs himna leisi.

## Gyllini Rósa.

Mikk. 4.

1. Gullleg Rós er grædarinn Jesús, gullleg rós med blómann ljósa, gullleg rós sem gjörir oss lýsa, gyllta rós þá fegnir kjósum.'

2. Oss med prís ad endurleysa, úppspratt rós af dýrdarljósi, nafnid Jesú nádarfúsa, nett med rósar teiknast glósu.

3. Sé þér dýrd vor sálarhyrdir, súngin hátt af hvørri túngu, ástar bjart oss øllum sértu, andarljós og gullleg Rósa.

## Jesú Umskurnar blód.

Lúk. 2, v. 11.

1. Umskorid Barn var Áttadag, útrann þar Jesú blód; allra fyrst þá med ángurs-plag, útrann þar Jesú blód. Vorum til yndis andar hag, útrann þar Jesú blód, svo eymd vor setjist øll í lag, útrann þar Jesú blód.

2. Allt hvad oss reyniſt ángurs strídt, aftaki Jesú blód; allt hvad oss þykir aptur blídt, oss veiti Jesú blód; allt hvad oss veitist edla frídt, ávarti Jesú blód, árid farsæli oss øllum nýtt, útrunnid Jesú blód.

## Tvø Nýárs vers.

Lagid: Ein Kauverst kvinna.

1. Ár farsælt øllum, oss nú géfi Jesús! frá slisa føllum, forda og hlífi Jesús! oss eptir þørfum, efli og blessi Jesús, and-skotans ørfum, apturhaldi Jesús, ártal nær endast, æfitída, Jesús, géf oss þá greidist, gángrúm til þín, Jesús!

2. Þitt ástar bjarta, edla nafnid Jesús!

þrykk á vort hjarta, með þeim blóðdropum, Jesú! sem af þér dundu, í umskurn þinni, Jesú! sorgsærða undu, svoddan græðir Jesús, um aldir alda, ár nýtt géf oss, Jesú! hjá þér að halda, í himnaríki, Jesú!

## Enn þá tvø Nýárs vers.

Með sama lagi.

1. Í umskurn þinni, ó minn góði Jesús! sætt svalar minni, sál, þitt blóðið, Jesús! sú huggun hærsta, hjartað rjóði, Jesús! og eyði stærsta, ángursmóði, Jesús! um allar tíðir, í einu hljóði, Jesús! þig lofi lýðir, ljúfi bróðir, Jesús!

2. Ár farsælt oss géf, øllum, blíði Jesús! með vægð ei viðtek, voðatíð er, Jesús! Satan lát síst fá, sjálfs þíns smíði, Jesús! ángri eg ei þá, øðru kvíði, Jesús! bug géf og beif neyð, í dauðastríði, Jesús! en til þín oss leið, alla um síðir, Jesús!

## Gyllini A B C.

1. Að því barn Guðs áttu að hyggja, ætíð ráðin góð skalt þiggja. þó þau leggi lægri þér, þín má velferð þarvið liggja, þú

munt sídur Drottinn styggja, mørg því æsin mannsins er.

2. Bakmáll lætur blídt í eyra, bøndin lasts er kjærn ad reira, málbragd legg sem minnst vid þann, því af ødrum opt kannt heyra, um þig sjálfann, — þad er meira — tvøfaldt verra' enn talar hann.

3. Ciceró þad segja rédi: sá sem gyrndum tauminn lédi, medan lifna, lidugann, vid þær seinna valla rédi, víst þad óhapp margan skédi, opt af neista bálid brann.

4. Dag hvørn þeink á dygda sædi, dag hvørn þeink á nádargjædi, dag hvørn þeink á dauda stund, deg hvørn þeink á dýrdarsvædi, dag hvørn þeink á hels kvalrædi, dag hvørn þeink á dómsins mund.

5. Einn ef lítur lundinn fleina, lítt til fara medal sveina, fyrir þad hann forsmá síst; hjá honum vel kann, holl ad reyna, hulin einhvør dygd sér leyna, sem þig vantar sjálfann víst.

6. Fødurlausum gódur granni, gjarnan sért, þó raunir kanni, á hann leggjast aldréi skalt, vyrding þó honum vesæld banni, verda kann hann seinna ad manni, en þitt lukkulánid valt.

7. Glíngur heims og gjørvall sómi, glis-

id allt, og fagur blómi, er af mørgum elsk-
ad best; allfagurt þó utan ljómi, oss mun
lítid hjálpa í dómi, eptir ei neitt þá af því
sjest.

8. Hál er gunstin høfdíngjanna, og hvik-
ul adstod ríkismanna, þá þeim nokkud þykir
ad, fékk þad Jósep fyrr ad sanna, forløgin
af illum svanna, allt hid sama enn er þad.

9. Jndi í heimi er ekki ad finna, allt þó
margur gjøri ad vinna, fyrir gjædi fallvølt
hans; þó hann vilji þér samsinna, og sínum
þig med látum ginna, í þann hlaup þú aldrei
dans.

10. Kjæti skalt í skordum stilla, skémtun
lát ei hófi spilla, þó til gamans gjørir þér,
gáiúnga skalt flokk ei fylla, en fróma jafnan
ad þér hylla, því þig gott af gódum skér.

11. Lauslátt fas er ljótt á svanna, og
losid deysir handyrdanna, enn þó vif sé vel
ad sér; glød má vera gullhlads nanna, en
gái' ad brúka stillíng sanna, því hún best
á fljódum fer.

12. Mann ef lítur mikid skarta, minnst
þér gánga lát til hjarta, kostuglegu klædin
hans, met þú dygd og manndóms parta, meir
enn svoddan fórdild bjarta, føgur er kápa
frómleikans.

13. Nýt þú vel það Guð þér gefur! gef þú þeim sem ekkert hefur! hefur þú þá hvørs dags brauð, brauð þér veitist sætt þá sefur, sefast allt hvað rauna krefur, himna síðan hreppir auð.

14. Okunnugann ei skalt hæða, yfir það með hógværð bræða, þó einfaldann sýni sig, spara ei honum greiðann gjæða, gjørðu' af alúð við hann ræða, best sem vildir breitt við þig.

15. Prýðin heims er páfugls líki, prjál-ið trúi' eg í honum ríki, sinn þá fagra sjer hann dún, frá honum sagt er forsíð víki, fóta sinna ef lítur síki, ángri blønduð eins er hún.

16. Qvinnan góð með kjærleik sønnum, kostum bestu er safnar hrønnum, kémur Drottni friðum frá, holl í øllum hjúskaps-ønnum, hylli Guðs og prís af mønnum, ætíð mun með æru fá.

17. Reynst þú vel þeim raunir kanna, ráðin góð ei skaltu banna, þeim sem þitt vill þiggja lið, gunst og hylli góðra manna, gjøfum afber høfðingjanna, best úr raunum réttir við.

18. Sjá þú til að syndgir eigi, sjer Guð alla þína vegi, er þér nærri Engill þinn, en þig Satan ógnarlegi, áklagar á nótt og degi, — Herrann er sjálfur hegnarinn! —

19. Taum þú skalt við túngu reira! tala' ei allt hvað kannt að heyra! þörf er stundum þagmælskan, að lesa og nema leysist fleira, enn láta fram; þó seg ei meira, heldur enn býður hæverskan.

20. Unntú þínu allvel standi! ædri tröppu fylgir vandi, völt eru einatt völdin há; af því hér þú ert framandi, en um síð á dýrdarlandi, muntu vegsemd fulla fá.

21. Vertu öllum viðmóts góður, virðtu kristinn hvörn sem bróður, því í Drottni það er hann; máls til síst við menn sért óður, mjög ei heldur jafnan hljóður, þannig tempr-ast þagmælskan.

22. Xenocrates svaf hjá sprundi, sem var fríð, og lítt sér undi, að hún fékk ei faðmlög hans, uppstóð samt frá örfa lundi, illa sneipt af þeirra fundi, sjá hér röksemd heidins manns!

23. Yfir hjú ef ertu settur, ætíð vertu í skapi léttur, nær þú skipar, brúka bón, ef þín brædi er eins og klettur, og með þjósti strax uppsprettur, traudt muntu ega trúann þjón.

24. Zachæus með síðina mæta, sagdist ferfaldt aptur bæta, þeim er féslétt hefði hann, annars lát þig óhapp græta, en aldrei skalt því lagi sæta, að ásælast aumíngjann.

25. Þolinmóður þú umlíðir, þessar bitru rauna=tíðir, lífsins meðan leikur hjól, eptir margar eymda hríðir, upp mun renna gladt um síðir, blessuð dýrðar blóma sól.

26. Æ, hvað mikil edla blíða, unun, ró og vegsemd þýða, oss mun gèfin öllum þá! veiti oss Jesús víst þá fríða, vesöld eptir þessra tíða, ósk sú verði, Amen — já!

---

## Leiðrétting.

---

Í formálanum bls. 4. l. 15. í staðinn fyrir þessi orð: viðvíkjandi Lángafa mínum Sigurði sál. eldra Sigurðarsyni Sýslumanni í Árness Sýslu á að standa: viðvíkjandi afa mínum Sigurði Sál. Landþíngis skrifara Sigurðarsyni.



